# KORMAKS SAGA

HERAUSGEGEBEN

VON

TH. MÖBIUS

HALLE a. S.
VERLAG DER BUCHHANDLUNG DES WAISENHAUSES
1886

# KORMAKS SAGA

HERAUSGEGEBEN

VON

TH. MÖBIUS

HALLE A. S.

VERLAG DER BUCHHANDLUNG DES WAISENHAUSES

1886

## ABKÜRZUNGEN

A : cod. AM. 132, fol.
B : cod. AM. 162 a, fol. (Fragm.)
Ch : cod. (codd.) chart. — (Ed.)
Ed : Kormaks saga. Hafn. 1832.
Cpb : Corp. poet. bor. I. II. Oxf. 1883 (GV)
GP : Gunnar Pálsson (Ed.)
GV : Guđbrandr Vigfússon
KG : Konrad Gíslason
SEg : Sveinbjörn Egilsson (Lex. poet.)

---

cursiv : fehlt in A
[ ] : an falscher Stelle, oder: zu tilgen
...... : Lücke anzunehmen
‘ ’ { in der Prosa : oratio directa
{ in den Versen : hdschr. Lesart, verderbt od. unverständl.

NB. Am äussern Rande stehen die Kapitel-, oben (neben der Seitenzahl) die Seitenzahlen der Ausg. von 1832.

---

Haraldr konungr hinn hárfagri réð fyrir Noregi þá er saga sjá gerðiz. Í þann tíma var sá hǫfðingi í ríkinu er Kormakr hét víkverskr at ætt, ríkr ok kynstórr; hann var hinn mesti garpr ok hafði verit með Haraldi konungi í mǫrgum orrostum. Hann átti son er Ǫgmundr hét, hann var hinn efniligsti maðr, snemma mikill ok sterkr; þegar er hann hafði aldr ok þroska, lagðiz hann í víking á sumrum, en var með konungi á vetrum; hann aflaði sér góðs orðs ok mikils fjár. Eitt sumar lagðiz hann í vestrvíking; þar var fyrir sá maðr er Ásmundr hét *eskisíða*; hann var hinn mesti garpr, hann hafði sigrat marga víkinga ok hermenn; spyrr nú hvárr til annars ok fara orð í milli þeirra ok funduz þeir sjálfir ok lǫgðu sér orrostustað ok bǫrðuz. Ásmundr hafði fleira lið ok lagði eigi ǫllu til orrostu. Þeir bǫrðuz iiij daga; fell mjǫk lið Ásmundar, en hann flýði sjálfr; en Ǫgmundr hafði sigr ok kom heim með fé ok frama. Kormakr kvað Ǫgmund eigi mundu meira frama fá í hernaði 'ok mun ek fá þér konu Helgu dóttur Fróða jarls.' 'Þat vil ek' segir Ǫgmundr. Eptir þat gera þeir ferð sína til Fróða jarls. Tók hann vel við þeim; þeir bera upp erendi sín, jarl tók því vel ok kallaði á liggja ótta nokkurn um skipti þeirra Ásmundar; en þó tókuz þessi ráð ok fóru þeir heim ok var við veizlu búiz ok kom til þeirrar veizlu fjǫlmenni mikit. Helga dóttir Fróða jarls átti sér fóstru framsýna ok fór hon með henni. Þetta spyrr Ásmundr víkingr ok ferr til fundar við Ǫgmund, býðr honum hólmgǫngu. Ǫgmundr játar því. Fóstra Helgu var því vǫn at þreifa um menn áðr en til vígs færi; hon gerir svá við Ǫgmund áðr hann fór heiman; hon kvað hvergi stórum við hníta. Þeir fóru síðan báðir til hólms ok bǫrduz. Víkingrinn færði við síðuna ok beit ekki á. Þá brá Ǫgmundr upp

# KORMAKS SAGA

HERAUSGEGEBEN

VON

TH. MÖBIUS

HALLE A. S.
VERLAG DER BUCHHANDLUNG DES WAISENHAUSES
1886

MEINEM WERTHEN FREUNDE

KONRAD MAURER

GEWIDMET

(5) Þá hljópu Þorveigarsynir upp ok sóttu at Kormaki lengi; Narfi skrjáði um it ytra. Þorkell sér heiman at þeim sækiz seint ok tekr vápn sín; í því bili kom Steingerðr út ok sér ætlan fǫður síns, tekr hon hann hǫndum ok kemz hann ekki til liðs með þeim bræðrum; lauk svá því máli at Oddr fell, en Guðmundr varð úvígr ok dó þó síðan. Eptir þetta fór Kormakr heim, en Þorkell sér fyrir þeim bræðrum. Litlu síðar ferr Kormakr at finna Þorveigu ok kvez ekki vilja bygð hennar þar í firðinum, 'skaltu flytja þik í brott at ákveðinni stundu, en ek vil allra bóta varna um sonu þína'. Þorveig mælti: 'þat er líkast at því komir þú á leið at ek verða heraðflótta, en synir mínir úbættir, en því skal ek þér launa at þú skalt Steingerðar aldri njóta'. Kormakr segir: 'því
6 mantu ekki ráða, en vánda kerling'. Síðan ferr Kormakr at finna Steingerði jamt sem áðr; ok eitt sinn er þau tala um þessa atburði lætr hon ekki illa yfir. Kormakr kvað vísu:

19. Sitja menn ok meina
mér ásiáno þína,
þeir hafa lǫgþes loddo
linna fœtr at vinna:
þvíat upp skolo allar,
ǫlstafns áþr þér hafnak
lýsegrundį! í lande
'linnz' þjóþár rinna.

'Mæl þú eigi svá mikit um' segir Steingerðr 'mart má því bregða'. Þá kvað Kormakr vísu:

20. Hvern munder þú hrundar
Hlín skapfrǫmoþ líno
(líkn sýner mér lúka)
liós þér at ver kiósa?

Steingerðr segir:

---

19[6] þér hafnak] ek þer hafna *A*
20[1] hrundar *Ch u. SEg*] grundar *A*

21. Bróþor munda'k blindom (6)
bauglester! mik festa
(yrþe goþ 'sem gerðiz'
góþ mér ok skǫp) Fróþa.

Kormakr segir: 'nú kaustu sem vera ætti; opt hefi ek hingat mínar kvámur lagðar'. Nú biðr Steingerðr Kormak stunda til fǫður hennar ok fá hennar ok fyrir sakir Steingerðar gaf Kormakr Þorkeli góðar gjafir. Eptir þetta eigu margir menn hlut í, ok þar kom um síðir at Kormakr bað Steingerðar ok var hon honum fǫstnuð ok ákveðin brullaupsstefna ok stendr nú kyrt um hríð. Nú fara orð á milli þeirra ok verða í nokkurar greinir um fjárfar ok svá veik við breytiliga at síðan þessum ráðum var ráðit fannz Kormaki fátt um; en þat var fyrir þá sǫk at Þorveig seiddi til at þau skyldi eigi njótaz mega. Þorkell í Tungu átti son roskinn er Þorkell hét ok var kallaðr tanngnjóstr; hann hafði verit utan um stund; þetta sumar kom hann út ok var með fǫður sínum. Kormakr sækir eigi brullaupit eptir því sem ákveðit var ok leið fram stundin. Þetta þykkir frændum Steingerðar úvirðing er hann bregðr þessum ráðahag ok leita sér ráðs.

Bersi hét maðr er bjó í Saurbæ, auðigr maðr ok góðr 7
drengr, mikill fyrir sér, vígamaðr ok hólmgǫngumaðr. Hann hafði átt Finnu hinu fǫgru ok var þá ǫnduð. Ásmundr hét son þeirra, hann var ungr at aldri ok bráðgerr, en Helga hét systir Bersa, hon var úgefin, vel at sér ok skǫrungr mikill; hon var fyrir búi Bersa eptir andlát Finnu. Á þeim bæ er í Múla heitir bjó Þórðr Arndísarson; hann átti Þordísi systur Barkar hins digra; þau áttu ij sonu, voru þeir báðir yngri en Ásmundr Bersason. Maðr hét Vali; bær hans hét á Valastǫðum, sá bær stendr skamt frá Hrútafirði.

Þorveig hin fjǫlkunniga fór at finna Hólmbersa ok sagði honum sín vandræði, kvað Kormak banna sér bygð í Miðfirði.

---

21[1] bróþor (brœðr *GV*)] braðr *A* 21[4] Fróða *GV*] froða *A*
8 góðar gjafir *Ch*] giofum (*sic*) *A*
12 veik *Ch*] vesk *A*

(7) Bersi keypti henni land fyrir vestan Miðfjǫrð ok bjó hon þar lengi síðan. Eitt sinn er Þorkell í Tungu ok son hans ræða um brigðmæli Kormaks þótti þeim þat hefnda vert. Narfi mælti: 'ek sé ráðit þat er duga mun; fǫrum vestr í sveitir með varning, komum í Saurbæ til Bersa, hann er kvánlauss; bindum hann í málit; hann er oss ærit traust'. Þetta ráð taka þeir, fara unz þeir koma í Saurbæ. Tók Bersi vel við þeim. Um kveldit verðr þeim tíðrætt um kvennkosti. Narfi mælti, segir engan jamngóðan kvennkost sem Steingerði 'er þat margra manna mál, Bersi, at hon sæmdi þér'. Bersi mælti: '*svá* spyrz mér til sem þverbrestr muni á vera þóat kostrinn sé góðr'. Narfi mælti: 'ef menn hræðaz Kormak, þurfu þeir þess eigi, þvíat vandliga er hann horfinn þessu máli'. Ok er Bersi heyrði þetta, vekr hann málit við Þorkel *tanngnjóst* ok biðr Steingerðar. Þorkell svarar vel ok fastnar Bersa systur sína. Ríða þeir norðr xviij saman ok sækja brullaupit. Þórðr Arndísarson fór með Bersa norðr. Maðr hét Vígi, mikill maðr ok sterkr ok fjǫlkunnigr; hann var frændi Bersa, hann fór með honum, þótti þeim sér mikit traust at Víga; Vígi átti bú í Hólmi. Mjǫk voru menn valdir til þeirrar ferðar, ok er þeir kómu norðr til Þorkels var þegar snúit at boði svá at þar fór engi frétt af um heraðit um þetta mál. Þetta var mjǫk gert í móti vilja Steingerðar. Vígi enn hamrami skynja*ði* hvers manns hagi þess er kom á bæinn eða á brott færi; hann sat yztr í stofu ok hvíldi við skáladyrr. Steingerðr lét kalla Narfa til sín ok er þau finnaz þá mælti Steingerðr: 'þat vilda ek, frændi, at þú segðir Kormaki þessa ráðagerð er hér er stofnuð; vilda ek at þú kæmir þessu erendi til hans'. Narfi ferr nú leyniliga; en þá er hann er skamt á leið kominn, þá kemr Vígi eptir honum, bað hann heim dragaz ok sitja á engum svikræðum; fara nú báðir saman ok líðr af nóttin. Um morgininn leitaði Narfi til ok komz þá skemra en um kveldit, þvíat Vígi sætti honum ok rak hann aptr með engri vægð. Þá er brullaupi var lokit búaz þeir á

1 vestan *Ch* (*Kål* II, 4)] norðan *A*
16 ríða *Ch*] skulu *A*

brott; Steingerðr hefir með sér gull ok gripi, ríða síðan til (7)
Hrútafjarðar ok heldr hógliga. Narfi ferr þegar þau eru í brottu ok kom á Mel. Kormakr hlóð vegg ok barði með hnyðju. Narfi reið við skjǫld ok lét gildliga ok hvaðanæva augun á sem á hrakdýri. Nokkurir menn voru uppi á vegginum með Kormaki er Narfi kom; hestr opaði undir Narfa; Narfi var gyrðr sverði. Kormakr mælti: 'hvat er tíðenda, Narfi, eða hvat var manna með yðr í nótt?' Narfi segir: 'smá eru tíðendi, en gesti áttu vér ærna'. Kormakr mælti: 'hverir voru gestir?' Narfi segir: 'þar var Hólmbersi með xviijda mann ok sat at brullaupi sínu'. Kormakr spyrr: 'hver var brúðrin?' 'Bersi fekk Steingerðar þorkels dóttur' segir Narfi 'sendi hon mik hingat þá er þau voru í brottu at segja þér tíðendin'. Kormakr mælti: 'jafnan muntu illt segja'. Kormakr hleypr at Narfa ok lýstr á skjǫldinn ok er at honum berr skjǫldinn skeiniz hann á bringunni ok fell af baki, en hestrinn hljóp í brott með skjǫldinn. þorgils bróðir Kormaks kvað þetta of gert. Kormakr kvað nær hófi. Narfi réttir við or rotinu ok talaz þeir við. þorgils spyrr: 'hver var manna skipun at boðinu?' Narfi segir þá. 'Hvárt vissi Steingerðr þetta fyrir?' Narfi segir: 'eigi fyrr en hinn sama aptan þá er til boðs var komit'. Narfi segir frá skiptum þeirra Víga ok kveðr Kormaki munu þykkja auðveldra at blístra í spor Steingerðar ok gera farar sínar hrakligar en berjaz við Bersa. þá kvað Kormakr vísu:

22. Kostaþu hins, at heste
halder fast ok skjalde,
koma mon ǫr viþ eyra
yþr bráþliga hnyþja:
segþu aldrege síþan,
þótt sjau um dag fregner,
(kemba skalt of kúlo
kumlabriótr!) frá sumle.

16 bringunni *Ed*] bryniunni *A*
17 skiolldinn (*Str.* $22^{2}$) *A*] söðulinn *Ed*
$22^{6}$ þótt] þottu *A* $22^{7}$ skalt] skalltu *A*

(7) Þorgils spyrr um máldaga með þeim Bersa ok Steingerði. Narfi segir at nú eru frændr Steingerðar lausir or ǫllum vanda um þetta ráð hversu sem gefz, en þeir feðgar skyldu 8 ábyrgjaz um boðit. Kormakr tók hest sinn ok vápn ok sǫdulreiði. Þorgils spyrr: 'hvat skaltu nú, bróðir?' Kormakr kvað vísu:

23. Brott hefer Berse setta
(þeiþesk hann áreiþa
valkiósande at víso
víns) heitkono mína
þá's unne mér manna
— mist hefe'k flióþs ens tvista —
(þá kysta'k mey mióva)
mest (daglenges flestan).

Þorgils mælti: 'úvarlig fǫr er þetta; þvíat Bersi mun kominn til heimilis áðr þér finniz, en fara mun ek með þér'. Kormakr kvaz fara skyldu ok bíða engis manns; stígr þegar á hest sinn ok hleypti allt þat er hann fekk. Þorgils fær sér brátt manna; urðu þeir saman átján, þeir koma eptir Kormaki á Hrútafjarðarhálsi ok hafði Kormakr þá sprengðan hest sinn; snúa fram at bæ Þorveigar; þeir sjá þá at Bersi er kominn á skip Þorveigar. Þorveig mælti til Bersa: 'ek vil at þú þiggir af mér litla gjǫf, en hollosta fylgir', þat var targa jarnrend, kvaz Þorveig þat ætla at Bersi mundi lítt sárr verða ef hann bæri þessa hlíf, 'er þetta þó lítils vert hjá því er þú komt mér í þessa staðfestu'. Bersi þakkar henni gjǫfina ok skiljaz þau síðan. Þorveig fær menn til at meiða ǫll skip þau er á landi voru, þvíat hon vissi fyrir kvámu þeirra Kormaks. Eptir þat koma þeir Kormakr ok beiða Þorveigu skips; hon kvaz þeim engi greiðskap gera mundu kauplaust: 'hér er vánt skip í nausti er ek met hálfri mǫrk á leigu'. Þorgils kvað hóf á ef væri fyrir tvá aura; Kormakr kvað ekki mega standa at um slíkt; Þorgils kvez fúsari at ríða fyrir

23[3] -kiósande] -kiosand *A* 23[6] ens] ok hins *A* 23[7] miofa *Ch*] miklu *A*

innan fjǫrđ. Kormakr réđ ok fóru á skipinu; en er þeir (8) voru skamt frá landi komnir, fyldi skipit undir þeim ok kómuz viđ nauđ til sama lands. 'Vítis ertu verđ en eigi kaups, en illa kerling' segir Kormakr. Þorveig kvađ þetta lítinn prett. Eptir þat greiđir Þorgils henni silfrit. Kormakr kvađ vísu:

24. At em ek Yggjar gauta  
ullar at Svǫlnis fulle  
of reiþe-sif rióþa  
runnr! sem vífl at brunne:  
dýrt verþr dǫggvar kerte  
Draupnes mart at kaupa;  
þrimr aurom skal þetta  
Þórveigar skip leiga.

Bersi fær sér skjótt fararskjóta, ríđr heimleiđis. Kormakr sér at í sundr mun bera međ þeim Bersa ok kvađ vísu:

25. Svá kveþ ek snyrte-freyjo  
('snemr' trúþa'k brúþe)  
gandes vangs of gengna  
greipar báls ór skálom,  
at vegskorþan verþe  
varrskíþs 'nemit' síþan  
(sǫddom hǫlds á holde  
hrafna) mér at tafne.

Þeir tóku hesta sína ok riđu fyrir innan fjǫrđ ok kómu til Vala ok spurđu at Bersa. Vali sagđi at Bersi var kominn í Múla ok hefir safnat at sér mǫnnum — 'eru þeir fjǫlmennir'. 'Þess til seinir eru vér orđnir' segir Kormakr 'er þeir hafa *mǫnnum* at sér komit'. Þorgils beiddi Kormak at þeir myndi aptr snúa, taldi litla virđing í mundu verđa. Kormakr kvez

---

$24^{2}$ ullar *SEg*] vllr *A*  
15 fararsk.] farask. *A*  
$25^{2}$ snemr *A*] snemma? $25^{6}$ nemit *A*] línhvít?  
29 mǫnnum *Ed*] *ausgerissen in A*

(8) sjá vilja Steingerði. Vali fór með þeim ok kómu í Múla; var þar Bersi fyrir með fjǫlmenni. Þeir talaz við, telr Kormakr Bersa hafa svikit sik í brottǫku Steingerðar 'viljum vér nú konu með oss hafa ok bætr fyrir svívirðing'. Þá segir Þórðr Arndísarson: 'sátt viljum vér bjóða Kormaki, en Bersi á vald konunnar'. Bersi mælti: 'engi ván er þess at Steingerðr fari með yðr, en systur mína býð ek Kormaki til eiginorðs, tel ek hann sé þá vel kvæntr ef hann fær Helgu'. Þorgils mælti: 'þetta er vel boðit ok lítum hér á, bróðir'. Kormakr varð staðr at.

9 Kona hét Þórdís ok illa lynd, hon bjó at Spákonufelli á Skagastrǫnd, hon vissi fyrir um ferðir Kormaks. Hon kom þann dag í Múla ok svarar þessu máli fyrir Kormak ok segir svá: 'bjóðit honum ekki falskonu, þvíat þessi kona er fífl ok engum duganda manni viðsæmanda ok hans móður mun eigi at getaz hans forlǫgum svá illum'. Þórðr segir: 'dragztu í brott, en vánda fordæða', lét þat sannaz mundu at Helga mun skǫrungr reynaz. Kormakr segir: 'því mun mælt at satt mun vera, mun ek ekki á þetta líta'. Þorgils segir: 'gæfufátt mun oss verða hlýða orðum fjánda þessa, en þiggja eigi þetta boð'. Þá mælti Kormakr: 'ek býð þér, Bersi, hólmgǫngu á hálfs mánaðar fresti í Leiðhólmi í Miðdǫlum' — þar er nú kallaðr Orrostuhólmr. Bersi kvez koma munu, kallar Kormak þat kjósa er minni sæmd fylgði. Eptir þetta ferr Kormakr at leita Steingerðar um bæinn ok finnr hana, telr hana hafa brugðiz sér er hon vildi ǫðrum manni giptaz. Steingerðr segir: 'þú ollir fyrr afbrigðum, Kormakr, en þetta var þó ekki at mínu ráði gert'. Þá kvað Kormakr vísu:

26. Þú telr liós of logna
lín-gefn! viþ þik stefno,
enn gørþa'k miǫk móþan
mínn fák of sǫk þína:

---

24 minni *Ed*] minsti (*sic*) *A*
26[3] gørþa'k] ek giorða *A*

heldr ek halfo vilda (9)
hring-eir! at marr sprynge
(sparþa'k ió þann's áttom
allítt) an þér hafnak.

Eptir þetta fara þeir Kormakr heimleiðis, segir Kormakr móður sinni hversu farit hefir. Dalla segir: ‘lítt verðr oss gæfu auðit um þín forlǫg; þvíat þar hefir þú neitt hinum bezta kosti, en mjǫk úvænt at berjaz við Bersa, hann er garpr mikill ok hefir góð vápn’. Bersi átti þat sverð er Hvítingr hét, bitrt sverð ok fylgði lýfsteinn, ok hafði hann þat sverð borit í mǫrgum mannhættum. Dalla mælti: ‘hvert muntu vápn hafa í móti Hvítingi?’ Kormakr kvez munu hafa exi mikla ok bitrliga. Dalla telr ráðligt at finna Miðfjarðar-Skeggja ok biðja Skǫfnungs. Eptir þetta ferr Kormakr til Reykja ok segir Skeggja málavǫxt, biðr hann ljá sér Skǫfnung. Skeggi kvez þess úfuss, kvað þá úskapglíka: ‘Skǫfnungr er tómlátr, en þú ert óðlátr ok óðlundaðr’. Kormakr reið í brott ok líkaði illa, kemr heim á Mel ok segir móður sinni at Skeggi vill eigi ljá sverðit. Skeggi veitti Dǫllu umsjá í sínum tillǫgum ok var vingott með þeim. Dalla mælti: ‘ljá mun hann sverðit þó er hann láti eigi fljótt til’. Kormakr kvað eigi at hǫgum til skipta ‘ef hann sparir eigi við þik sverðit, en hann sparir við oss’. Dalla kvað hann forsmann vera. Nokkurum dǫgum síðar bað Dalla Kormak fara til Reykja ‘mun nú Skeggi ljá sverðit’. Kormakr hittir Skeggja ok biðr Skǫfnungs. ‘Vandhæfi mun þér á þykkja meðferðinni’ segir Skeggi, ‘þungr fylgir ok skaltu hann kyrran láta; eigi skal sól skína á et efra hjaltið, eigi skaltu ok bera þat nema þú búiz til vígs; en ef þú kemr á vettfang, sit einn saman ok bregð þar, rétt fram brandinn ok blás á; þá mun skríða yrmlingr undan hjaltinu, halla sverðinu ok

26[5] ek h. v. *GP*] v. ek h. *A* 26[6] -eir] -eirr *A* 26[8] þér hafnak (19[6]) ek þér hafna *Cpb*] þik grafna *A*
6 móður sinni *GV*] monnum sinum *A*
21 þó er *A* (*d. i.*: þó at?)

(9) ger honum hægt at skríða undir hjaltið'. Kormakr mælti: 'mart hafi þér við tǫframenninir'. Skeggi mælti: 'þetta mun þó fyrir fult koma'. Eptir þetta ríðr Kormakr heim ok segir móður sinni hversu farit hefir, telr mikit mega vilja hennar við Skeggja, sýnir henni sverðit ok vill bregða sverðinu; þat gengr eigi or slíðrunum. Dalla mælti: 'of óráðþægr ertu, frændi'. Kormakr setr þá fætrna við hjǫltin ok slítr af punginn; Skǫfnungr grenjar þá við ok gengr eigi or slíðrunum. Líðr nú fram at stefnunni. Ríðr Kormakr heiman með xv menn; slíkt it sama ríðr Bersi til hólms við jammarga menn. Kormakr kemr fyrri; segir Kormakr Þorgilsi at hann vill einn saman sitja. Kormakr setz niðr ok tekr af sér sverðit, hirði eigi þóat sól skini á hjalt honum, en hann hafði gyrt sik utan um klæði ok vill bregða ok fekk eigi fyrr en hann sté á hjaltið ok kom yrmlingrinn ok var ekki með farit sem skyldi ok var brugðit heillinu sverðsins, en þat gekk grenjanda or slíðrum.

10 Eptir þat fór Kormakr á fund manna sinna. Voru þeir Bersi þá komnir ok mart annarra manna at sjá þenna fund. [Kormakr tók upp tǫrguna Bersa ok laust á ok rauk ór eldr. Nú er tekinn feldr ok breiddr undir fætr þeim.] Bersi mælti: 'þú, Kormakr, skoraðir á mik til hólmgǫngu, en þar í mót býð ek þér einvígi; þú ert maðr ungr ok lítt reyndr, en á hólmgǫngu er vandhæfi, en alls ekki á einvígi'. *Kormakr mælti:* 'ekki mun ek betr berjaz einvígi; vil ek til þessa hætta ok í ǫllu til jafns halda við þik'. 'Þú ræðr nú' segir Bersi.

Þat voru hólmgǫngulǫg at feldr skal vera v alna í skaut ok lykkjur í hornum; skyldi þar setja niðr hæla þá er hǫfuð var á ǫðrum enda, þat hétu tjǫsnur; sá er um bjó skyldi ganga at tjǫsnunum svá at sæi himin milli fóta sér ok heldi í eyrasnepla með þeim formála sem síðan er eptir hafðr í blóti því at kallat er tjǫsnublót. Þrír reitar skulu umhverfis feldinn

12 hirði] hirti *A*
25 mun ek *Ed*] muntu *A*

fets breiðir; út frá reitum skulu vera stengr iiij ok heita (10) þat hǫslur; þat er vǫllr haslaðr er svá er gert. Maðr skal hafa iij skjǫldu, en er þeir *eru* farnir, þá skal ganga á feld þóat áðr hafi af hǫrfat; þá skal hlífaz með vápnum þaðan frá. Sá skal hǫggva er á *er skorat.* Ef annarr verðr sárr svá at blóð komi á feld, er eigi skylt at berjaz lengr. Ef maðr stígr ǫðrum fæti út um hǫslur 'ferr hann á hæl', en 'rennr' ef báðum stígr. Sinn maðr skal halda skildi fyrir hvárum þeim er berz. Sá skal gjalda hólmslausn er meir verðr sárr, þrjár merkr silfrs í hólmlausn.

*Nú er tekinn feldr ok breiddr undir fœtr þeim.* Þorgils helt skildi fyrir bróður sínum, en Þórðr Arndísarson fyrir Bersa. Bersi hjó fyrri ok klauf skjǫld Kormaks, hann hjó til Bersa með slíkum hætti; hjó hvárr þrjá skjǫldu fyrir ǫðrum til ónýts. Þá átti Kormakr at hǫggva; síðan hjó hann til Bersa, hann brá við Hvítingi, tók Skǫfnungr af *od*dinn af Hvítingi fyrir framan vettrimina ok hraut sverðsoddrinn á hǫnd Kormaki ok skeindiz hann á þumalfingri ok klofnaði kǫggullinn ok kom blóð á feldinn. Eptir þat gengu menn á milli þeirra ok vildu eigi at þeir berðiz lengr. Þá mælti Kormakr: 'þetta er lítill sigr er Bersi hefir fengit af slysi mínu þótt vit skiljumz'. [En þá er Skǫfnungr reið ofan, kom *hann* a tǫrguna ok brotnaði skarð í Skǫfnung, en eldr hraut *or torgunni* Þorveigar naut.] Bersi heimti hólmlausn; Kormakr kvað honum goldit mundu verða fé ok skilduz við þá kosti.

Steinarr hét maðr, hann var son Ǫnundar sjóna, bróðir 11
Dǫllu móður Kormaks; hann bjó á Elliða ok var óeirumaðr. Þangat reið Kormakr frá hólminum at finna Steinar frænda sinn. Kormakr segir frá ferðum sínum; Steinarr lét illa yfir. Kormakr kvaz ætla af landi í brott 'en ek ætla þér fégjaldit

1 stengr *Ed*] strengir *A*
11 *Nú er* . . . *þeim s*: *S.* 20[21]
15 at hǫggva . . . síðan hjó hann?
25 — *S.* 22[17] *lies:* . . . við þá kosti. Eptir þenna fund . . . *Str.* 27 (Mér varþ . . . á mik síþan). Steinarr hét maðr . . . var umbǫndum. Stein. ok Korm. riðu *usw*

(11) við Bersa'. Steinarr segir: 'engi ertu ofrhugi, en gjaldaz mun fé ef þarf.' Kormakr er þar nokkurar nætr; blés mjǫk hǫndina er með engum var umbǫndum. Eptir þenna fund fór Hólmgǫngubersi at finna bræðr sína ok þeir spyrja Bersa hve tekiz hafði hólmgangan; hann segir sem farit hefir; þeir kváðu þá tvá ofrhuga hǫggit hafa í smæra lagi, kváðu Bersa af slysi Kormaks sigraz hafa. Bersi hittir Steingerði, hon spurði hversu farit hafði, hann kvað vísu:

27. Mér varþ hialms á holme
hialdr-ullr fyr sik gialda
(þoll má þann of kalla)
þriár merkr (hugom sterkan):
skora mon Skǫglar 'dyra'
skialdvers regenn aldre
(vér bárom hlut hæra)
hríþfimr á mik síþan.

Steinarr ok Kormakr riðu brott frá Elliða, þeir ríða til Saurbæjar, þeir sjá mannareið í móti sér, ferr þar Bersi. Hann kveðr Kormak ok spyrr hversu sárit hafiz; Kormakr kvað eigi stórra bóta ávant. Bersi mælti: 'viltu at ek græða þik þóat af mér hafi til hlotiz? — ok mun þér þá skamt mein at verða'. Kormakr neitti því ok kvaz jafnan ilt vildu eiga við hann. Þá kvað Bersi vísu:

28. Muna mont hialdr þann's Hildar
háraddar mik kvadder,
geng ek at geira þinge
glaþr, em'k reyndr at aþro;
randlauke klauf'k randa
rand Kormake at handom,
vildet 'framm' af felde
Freyr einvíge heyja.

Skildu þeir at því. Eptir þetta ferr Kormakr heim á Mel ok

27[2] hialdr-ullr (-ullr *SEg*)] hallduillr *A* 27[5] dyra *A*] hlýra?
17 riðu *Ed*] reið *A*
28[1] mont] muntu *A* 28[7] vildet] villdi eigi *A* framm *A*] fiarr?

finnr mǫđur sína; hon græđir hǫnd hans, verđr ljótt ok grær um ólíkan; skarđ þat er í var Skǫfnungi hvǫttu þeir, var þat því meira sem þat var optar hvatt. Síđan fór hann til Reykja ok kastađi Skǫfnungi fyrir fætr Skeggja ok kvađ vísu: (11)

29. At hefe'k yþr at fœra
eggfallenn hiǫr Skegge!
beitaþ vápn at víso,
varþ þeira hlutr meire:
vasat um gang þann's gengom
geirþey of mey heyja
sǫngvarþaþa sverþa
senno mér at kenna.

Skeggi mælti: 'fór sem mik varđi'. Kormakr snýr í brott ok kemr heim á Mel ok þá er þau funduz Dalla ok Kormakr kvađ hann vísu:

30. Hefe'k á holm of genget
(hugþomk þat fyrr batra)
viþ híþbyggve, holla
handarskers! at berjask:
brast fyr mér enn mære
mundar vǫndr í hende,
mist hefer margra kosta
morþeggjande seggja.

ok enn kvađ hann:

31. Fœrþet mér at morþe
morþvǫnd (fetels storþar
staþr's í strandar naþre
starr) eggjaþan Skegge:

29[3] beitaþ] beit eigi *A* 29[5] gang] gengn *A*

14—15 á Mel .... vísu:] á Mel. Kormakr kvađ vísu *A*

30[2] fyrr] firir *A* 30[3] holla *Ch u. SEg*] hollta *A* 30[6] -vandr í handi?

24 ok enn kvađ hann] ok þá er þau funduz D. ok K. kvađ hann vísu *A*

31[1] fœrþet] færđi a *A*

(11) gørþe (holt) fyr hialte
Hvíteng í tvau bíta
(broteþ hefe'k skarþ í skerþe)
Skafnongr (fetels drafnar).

ok enn kvađ hann:

32. Gørþe oss mein at morþe
morþvandr es hió'k rander,
greipar rann at grunne
grannfengr) íugtanne:
illa lét þá's Áta
ófúss varar húsa
sónar fress ór síno
slíþrbyþo gekk híþe.

ok enn kvađ hann:

33. Gǫngo vas'k of gengenn
Gefn! til víssar stefno,
nú'mk hǫrþellu hylle
hornongr tváa morna:
gremjomk hins at heima
hǫrfit! mona'k sitja
(mér's of erma ilme
iþjosamt) enn þriþja.

Eptir þetta ferr Kormakr til Reykja einn dag ok talaz þeir Skeggi viđ, kallar Skeggi lítilmannliga orđna hólmgǫnguna, þá kvađ Kormakr vísu: 25

34. Firnaþu mik þótt fiǫrnes
Freyr! væra'k þér dreyra
(mærþ ber ek fyr þik mína)
mœre seinn at fœra:

---

31[7] skerđi *GP*] skerđvm *A*
32 oss mein *Ch*] ok mín *A* 32[2] hió'k] ek hio *A* 32[3] grunne] gunni *A* 32[4] íugtanni *GP*] iugranní *A* 32[6] ófúss] ofus *A*
33[4] tváa *KG*] tua *A* 33[5] gremiumst *Ch*] geriumz *A*

þvíat 'vnd heiðiss hliði' (11)
hreggmiþjunga, Skegge!
(veret hefr í þrym þremja
þínn hiǫrr) skǫp of vinna.

ok enn kvað hann:

35. Frameþ þóttomk ek flótta
Freyr, mínn granne! dreyra
Gauts at gatna móte
galdrs blóþfrekom halda:
né 'glymranar' gína
gátt hliþs 'init' mátteþ
(mínn leikr hugr á henne)
hlunn-njóts viþ banmunne.

Um vetrinn voru leikar í Saurbæ ok voru þar hvárir- 12
tveggju Ásmundr Bersason ok þeir synir Þórðar Arndísarsonar, þeir voru yngri ok óknári. Ásmundr stilti illa afli sínu, kómu synir Þórðar opt bláir ok blóðgir heim. Þetta líkar Þórdísi móður þeirra illa, biðr Þórð vekja til við Bersa fǫður Ásmundar at hann vili bæta fyrir hann. Þórðr kvaz þess ófúss, hon segir þá: 'Bǫrk mun ek þá finna bróður minn ok mun þá eigi minna ilt af hljótaz'. Þórðr bað hana þat eigi gera 'vil ek heldr um tala við Bersa', ok fyrir bæn hennar hittir hann Bersa ok vekr til um bætr. Bersi mælti: 'of fégjarn ertu nú ok horfir þat lítt til sæmdar at fara með slíkt; er eigi ráðit hvárt þú verðr øreigi ef mik þrotar eigi'. Ferr Þórðr heim ok er fátt með þeim um vetrinn; líðr á várit fram til Þórsness-þings; þykkiz Bersi nú skilja at Þórdís hefir valdit því ákalli er Þórðr veitti honum. Búaz menn nú til þings; var þat vandi Þórðar ok Bersa at ríða báðir saman til þings. Bersi ríðr heiman ok kemr í Múla, Þórðr var í brottu; Bersi mælti: 'brugðit hefir Þórðr nú vanda er hann beið mín eigi'.

---

34[8] skǫp of] skaupum *A*

35[1] framiþ] framit *A* 35[2] mínn] minum *A* 35[8] hlunn-njóts] hlunníos *A*

20 mun þá *A*] mun þó?

(12) þá svarar þórdís: 'þú ollir afbrigðum, en þetta er lítil hefnd ef eigi kemr meiri'; þau urðu andorða ok segir Bersi at af hennar ráðum mun ilt hljótaz. Ríða þeir í brott; Bersi mælti: 'snúum fram at firðinum ok fám oss skip; langt er at ríða it innra'; þar fengu þeir skip er þórðr átti, fara nú leiðar sinnar, koma til þings þá er flestir voru áðr komnir, ganga til búðar Ólafs pá or Hjarðarholti, Bersi var hans þingmaðr; fjǫlmennt var í búðinni ok fekkz Bersa ekki rúm; hann var vanr at sitja hjá þórði, þat rúm var skipat, þar sat maðr mikill ok sterkligr í bjarnskinsólpu ok gríma fyrir andliti. Bersi stóð fyrir honum ok gafz eigi rúmit; Bersi spyrr þenna mann at nafni, honum er sagt at hann heitir ýmist Glúmr eða Skúma. Bersi kvað vísu:

36. Hverr's 'án' biarnar barþe
á bekk komenn rekka
(ulf hafa órer niþjar)
œgiligr (und bœ̨ge)?
glíkan hefr of gørvan
— Glúmr es nefndr eþa Skúma —
(fǫrom til móts á morne)
mann Steinare þenna.

ok er þér ekki at leyna nafni þínu, bjarnólpumaðr' segir Bersi. 'Svá er ok' segir hann, 'Steinarr *heiti ek* ok á ek fé at gjalda þér fyrir Kormak ef þarf; en fyrri skora ek þér á hólm, kann vera at þú fáir þá tvennar merkr eða látir ella báðar'. þá kvað Bersi:

37. Boþet hafa brodda hríþar
beiþendr viþ styr kender
(þykker oss þat ekke
angr) á holm at ganga:

---

36[1] án *A*] und? 36[3] órer] varir *A* 36[8] þenna *A*] þannsi? *H. Gering*
25 tvennar (*d. i.: zweimal drei*) *Ch*] .ij. (*sic!*) *A*
37 *vgl:* 45 37[1] hafa (45[1])] er *A*

gamall em'k geira vímarr (12)
gunnþeysanda at leysa
(ugge'k hverge at hǫggva)
Hlakkar veþr á bakkum —

en auđsætt er þat at þér frændr ætlit mér at fyrirkoma, er ok vel at þú vitir hvárt nokkut er undir mínum þokka ok mætti setjaz ofmetnađr þinn'. Steinarr segir: 'ekki vinnum vér þér bana, en vel þætti oss at þú kynnir at meta þik'. Bersi játar hólmgǫngunni ok gengr í afbúđ ok var þar. Einn dag var kallat at menn skyldi á sund. Steinarr mælti viđ Bersa: 'viltu reyna sund viđ mik, Bersi?' Hann segir: 'niđr hefi ek lagt sund, en til mun ek fara'. Bersi ferr ǫrđigr ok leggz hart, hann hafđi lyfstein á hálsi. Steinarr leggz at honum ok slítr af honum steininn međ punginum ok kastar á sundit ok kvađ vísu:

38. Lifþa'k lenge,
léť'k ráþa goþ,
hafþa'k aldre
hoso móraupa,
batt'k aldre mér
belg at halse
vittafullan —
þó'k enn life.

Eptir þetta leggjaz þeir til lands. Þat bragđ er Steinarr hafđi viđ Bersa var af ráđum Þórđar at Bersa skyldi verr ganga hólmgangan. Þórđr gekk hjá firđinum er fjarađi ok fann lyfsteininn ok hirđi. Steinarr átti sverđ þat er Skrýmir hét, þat var aldri saurugt, fylgđi því ok engi vandhæfi. Þann dag er ákveđit var gengu út or búđ Þórđr ok Steinarr, kom Kormakr þá á þingit. Ólafr pái fær Bersa liđ til hólms; var Þórđr Arndísarson vanr at halda skildi fyrir Bersa, en nú varđ þat ekki; gengr Bersi þó til hólms ok er eigi nefndr

37[6] -þeysanda (*vgl:* 45[6])] -þeysandi *A* 37[7] hǫggva (45[7])] hyggia *A* 37[8] á bakkum (45[8])] um blakka *A*

9 afbúđ *Ch*] abbuđ *A*

38[5] mór. *Cpb*] mosr. *A* 38[7] vittaf. *Cpb*] vitaf. *A* (*NB.* vitt. *d. i.*: uitt.)

(12) skjaldsveinn hans. Kormakr skal halda skildi fyrir Steinari. Bersi hafði tǫrguna þorveigarnaut; þrjá skjǫldu hafði hvárr; þá hjó Bersi tvá skjǫldu, en Kormakr helt á enum þriðja. Bersi hjó til Steinars, en Hvíting festi í járnrendingunni á skildi Steinars. Kormakr brá upp skildinum, í því hjó Steinarr til Bersa ok kom á skjaldarrǫndina ok hljóp af skildinum ok á þjónappa Bersa ok rendi ofan eptir lærunum í knésbætr svá at sverðit stóð í beini ok fell Bersi. Steinarr mælti þá: 'nú er goldit féit fyrir Kormak'. Bersi spratt þá upp ok hjó til Steinars ok klauf skjǫldinn ok kom sverðsoddrinn í bringu Steinari. Þórðr hljóp at ok hratt Steinari undan; Þórðr mælti: 'nú galt ek þér sona meiðing'. Eptir þat var Bersi borinn til búðar ok bundin sár hans. Þórðr fór heim til búða; en þá er Bersi sá hann kvað hann vísu:

39. Fylgþuþ oss, at Óþens
endr ór þesse hende
Hlakkar-niǫrþr! á hurþer
hurþulfr 'gininn' þurþe:
nú ferr enn svát 'ekia'
Ialks-skýja vill týja
myrþe-freyr at morþe
(marglyndr ertu) targu.

ok enn kvað hann:

40. Þótta ek þá's œre
(ársagt es þat) várom
hæfr at Hlakkar drífo
hyrrunnom vel Gunnar:
nú vilja mik míner
(minst dyljomk þess) hylja
— þat hefe'k sótt — í sléttom
Saurbœ viner aure.

---

39[6] vill týja] villtyiu (*d. i.*: villt tyiu?) *A*

40[1–4] *auch in SE* I, 418 (II, 326. 437. 586) 40[1] œri *SE*] atti *A* 40[2] várum *SE*] varu *A* 40[3] at *SE*] í *A* 40[4] hyrrunnom *SE*] hyrtunnum *A* 40[6] dyljomk] dylium *A* 40[7] sléttom *Cpb*] sléttan *A* 40[8] vinir *KG*] frændr *A*.

Þórðr mælti: 'eigi þik dauðan en óvirðingar unnum vér þér í þessu sinni'. Þá kvað Bersi vísu: (12)

41. Mér hafa frændr at funde
(fersk ván gleþe) þessom
— rœþe'k heldr fyr hǫldom
hugat mál of þat — brugþezk:
torogæter 'ro — teitan
tók hrafn á ná (iafnan
ek em viþ ógnar rekka
óhryggr) — viner tryggver.

Eptir þetta var Bersi færðr heim í Saurbæ ok lá hann lengi í sárum. Nú er at segja frá Kormaki ok Steinari; þat mund er Bersi var til búðar borinn mælti Steinarr við Kormak:

42. Folk-sýrar lét'k fióra
(fráttoþ þess) ok átta
skyggs fyr Skrýmes eggjo
skerþendr hliþa verþa:
nú hefr bǫþ fǫrsa Bersa
blestǫ niþs á leste
sárgeitunga sveita
sanneldeng of feldan.

Steinarr mælti: 'ek vil at þú eigir nú Skrými, Kormakr, þvíat ek ætla mér þessa hólmgǫngu síðasta'. Eptir þetta skilduz þeir vinir, fór Steinarr heim, en Kormakr *fór á Mel.*

Nú er at segja frá Bersa, sár hans greru seint. Þat var 13
eitt sinn at margir menn kómu til at rætt var um fundinn hvernig tekiz hafði; þá kvað Bersi vísu:

43. Mér helt Yggr und eggjar
allstyrkr góens vallar
(nauþr hagar nú til frœþa)
naþrs, enn hlífþer aþrom:

---

41[4] of (um *KG*)] í *A*
42[8] sannelding *SEg*] sanneldinga *A*
43[1] Yggr *Ch*] hyggr *A* 43[2] góins *GP*] gois *A* 43[4] naþrs *GP*] naðzs *A*

(13) svá fara ráþ, enn reiþask
róglinns stafar of minna;
nú læt'k at þar þrióte
þórrøþr! vinon óra.

Eptir þetta fór þórðr at rúminu til Bersa ok færði honum lyfsteininn; síðan græddi þórðr Bersa ok tókz þá þeirra vinátta ok heldu vel síðan. Við þessa atburði lagði Steingerðr leiðendi á við Bersa ok vill skilja við hann ok er hon er búin til brottfarar gengr hon at Bersa ok mælti: 'fyrst vartu kallaðr Eyglu-Bersi, en þá Hólmgǫngu-Bersi, en nú máttu at sǫnnu heita Rassa-Bersi' ok segir skilit við hann. Steingerðr ferr norðr til frænda sinna, hittir þorkel bróður sinn, biðr hann heimta fé sín at Bersa, mund ok heimanfylgju, ok kvez eigi vilja eiga Bersa ǫrkumlaðan. þorkell lastar þat ekki ok heitr fǫr sinni. Líðr vetrinn ok frestaz fǫr þorkels.

14 Eptir um várit fór þorkell tanngnjóstr at finna Hǫlmgǫngubersa ok heimta fé Steingerðar. Bersi kvað sinn hlut mundu sýnaz þungan þóat hvárirtveggju kendi nokkurs af 'ok mun eigi féit greiðaz'. þorkell mælti: 'ek býð þér hólmgǫngu í Orrostuhólmi við Tjaldanes'. Bersi segir: 'þat mun þér nú þykkja til lítils slíkr garpr sem þú ert, en þó *heit* ek þér at koma'. þeir kómu til hólms ok tókz hólmgangan; helt þórðr Arndísarson skildi fyrir Bersa, en Vali fyrir þorkeli, ok þá er tveir skildir voru farnir bauð Bersi þorkeli at taka hinn þriðja; þorkell vildi þat eigi. Bersi hafði [skjǫld ok] sverð langt ok bitrt. þorkell mælti: 'þat sverð er þú hefir, Bersi, er lengra en lǫg liggja til'. 'þat skal eigi vera' segir Bersi, tekr upp Hvíting ok tvíhendir, hǫggr þorkel banahǫgg. þá kvað Bersi:

44. Nú hefe'k (enn tel'k Tanna)
Tanngnióst veget manna
(þau bere menn frá morþe
mín orþ) tegar fiorþa:

---

43[6] stafar *KG u. Cpb*] sumir *A* of minna (49[8])] minna *A*
43[7–8] *auch in* SE II, 138 (416) 43[7] at þar *SE*] þar *A*
44[1] tel'k] tel *A*

koma monat Ullr þótt ellesk **(14)**
optar mara þoptu
(lita'k blóþe svan sveita)
setre hveim at betra.

Eptir þat bauð Vali Bersa hólmgǫngu, en Bersi kvað vísu:

45. Boþet hafa brynjo hríþar
beiþendr viþ styr kender
(oss gerom at því ekke
angr) á holm at ganga:
gaman þykker nú gumnom
gunnstœranda at fœra
(uggom hverge at hǫggva)
Hlakkar veþr á bakkom.

Þórðr kom þá er berjaz skyldi ok mælti til þeirra Bersa ok Vala: 'Þat þykkir mǫnnum mikil vandræði ef hraustir menn skulu drepaz niðr án nokkurri sǫk ok bjóðumz ek til at gera í milli ykkar'. Þeir játtu því. Þórðr mælti: 'Vali, þat þykkir mér vænligast til sættar at Bersi fái Þórdísar systur þinnar, má þér verða at því sæmd'. Því játtar Bersi ok skal Þórdísi heiman fylgja Brekkuland, ok tekz þessi mægð með þeim. Eptir þetta lætr Bersi gera virki um bæ sinn ok sat þá marga vetr í kyrðum.

Þórarinn hét maðr, hann var Álfsson, hann bjó norðr **15**
í Þambardal — sá dalr gengr af Bitru —, hann var mikill maðr ok sterkr ok kallaðr Þórarinn rammi; hann hafði lengi verit í fǫrum ok svá farsæll at hann kaus sér jafnan hǫfn þar er hann vildi; hann átti iij sonu, hét einn Álfr, annarr Loptr, þriði Skopti; Þórarinn var úeirðarmaðr mikill, þar eptir voru synir hans skapfarnir, hinir mestu hávaðamenn. Maðr hét Oddr, hann bjó í Tungu — þat er í Bitru —, dóttir hans hét Steinvǫr, væn ok vel at sér, hon var kǫlluð mjó-

---

44[5] koma monat] komat man *A* ellesk *d. i.:* eldesk] elli *A* 44[7] lita'k (47[6]) *Cpb*] litar *A* 44[8] setri hveim] setrs í heim *A*

45 *vgl.*: 37 45[7] uggom (ugge'k 37[7])] viggum *A* 45[8] veþr (37[8])] veðrs *A*

(15) beina; með Oddi voru fiskimenn margir. Maðr hét Glúmr, hann var til vers, skapillr ok leiðindr.

Þat var eitt sinn er þeir Oddr ok Glúmr ræddu um hverir menn mestir væri í heraði. Glúmr taldi Þórarin fyrirmann, en Oddr kvað Hólmgǫngubersa at ǫllu framar. Glúmr mælti: 'hvat færir þú til þess?' Oddr mælti: 'mun nokkut allíkt garpskapr Bersa eða stuldir Þórarins?' Þar til ræða þeir um þetta er þeir reidduz ok veðjuðu. Þá ferr Glúmr ok segir Þórarni; hann gerir reiðan mjǫk ok heitaz við Odd. Síðan ferr Þórarinn ok tekr í brott Steinvǫru or Tungu án ráði Odds fǫður hennar ok kveðr honum eigi óhætt skyldi ef hann teldi at, ok þau koma heim í Þambardal. Fór nú svá fram um hríð. Eptir þetta ferr Oddr at finna Hólmbersa ok segir honum sem farit hefir ok biðr hann liðs at sækja Steinvǫru ok reka skammar þessar. Bersi kvað þetta óskylt tal verit hafa ok bað Odd heim fara ok sér engu af skipta 'en þō heit ek þér minni ásjá'. Þegar Oddr er í brottu býz Bersi heiman, ríðr við alvæpni ok gyrðr Hvítingi ok hefir þrjú spjót, kemr í Þambardal mjǫk at áliðnum degi þá er konur gengu or dyngju. Steinvǫr sér Bersa ok snýr til móts við hann ok segir honum til sinna vandræða. 'Búz þú með mér' segir Bersi, ok hon gerir svá. Bersi kvez eigi erendlaust fara vilja í Þambardal, snýr at dyrum er menn sátu við langelda; lýstr Bersi á dyrr ok gengr þar út maðr, sá nefndiz Þorleifr. Þórarinn kendi mál Bersa ok hleypr út með tálguknif mikinn ok leggr til Bersa. Þetta sér Bersi ok bregðr Hvítingi ok hǫggr hann þegar banahǫgg. Eptir þetta hleypr Bersi á bak ok setr Steinvǫru í kné sér ok tekr spjót sín er Steinvǫr hafði varðveitt, ríðr í skóg nokkurn ok í leyni einu lét hann hestinn ok Steinvǫru ok bað hana sín bíða; síðan gekk hann til klifs þess er þjóðgata lá yfir ok býz þar fyrir. Í Þambardal var eigi alt kyrt; Þorleifr hleypr ok segir sonum Þórarins at hann lá dauðr í dyrunum; þeir spurðu hverr því voldi, Þorleifr segir. Síðan fóru þeir eptir Bersa ok stefndu it gegnsta til klifsins ok ætluðu at komaz fyrir Bersa; en nú er hann fyrir í klifinu. En er þeir kómu nær at honum skaut Bersi spjóti

til Álfs ok í gegnum hann, þá skaut Loptr til Bersa, hann brá við tǫrgunni ok hraut af, síðan skaut Bersi Lopt til bana ok svá Skopta. Þá er þetta var gert kómu heimamenn þeirra bræðra, veik Þorleifr aptr móti þeim ok fóru heim allir saman.

Eptir þetta vitjar Bersi Steinvarar ok stígr á hest sinn **16**
ok kom heim áðr menn voru upp staðnir; þeir spyrja um ferðir Bersa, en hann segir. Þórðr spyrr Bersa er þeir finnaz um fund þeirra hvernig farit hafði, þá kvað Bersi vísu:

46. Einn beiþ ulfa grenner
andrán í dal þambar,
fell fyr frœþa spille
framm Þórarenn ramme:
lífspell biþo lýþer,
Loptr hné, Alfr ok Skopte,
(þeir hluto feþgar fiórer
feigþ) kom ek einn til þeira.

Eptir þetta ferr Oddr heim, en Steinvǫr er með Bersa; þetta líkar Þórdísi illa. Þá var nokkut á fǫru virkit Bersa, en nú lét hann bæta virkit. Svá er sagt at engar yrði bætr eptir menn þessa. Liðu nú fram stundir. Eitt sinn er þau Þórdís ok Bersi tǫluðuz við *mælti* Bersi: 'þat ráð hefi ek hugsat at bjóða Ólafi Hǫskuldssyni barnfóstr'. Hon segir: 'lítið er mér um þat, líz mér þat mikill vandi, en ósýnn sæmdarauki'. 'Þat er ok ǫruggt traust, en ek á sǫkótt, en gerumk mjǫk aldri orpinn' segir Bersi. Ferr hann til móts við Ólaf ok býðr honum barnfóstr; þetta tekr Ólafr með þǫkkum ok flytr hann Halldór heim með sér ok fær Steinvǫru til fóstrs; þetta líkar Þórdísi illa ok skýtr undan penningunum. Bersi tekr

---

4 Þorleifr] þa geirr *A*
$46^{1}$ einn] einnar *A*
$33^{29}$—$35^{15}$ *lies:* Bersi tekr ... skyr. Þá kv. B. vísu: *str.* 50 (Komenn es ... kvíþak). Halld. m.: 'lítt... minn'. Þá kv. B. vísu: *str.* 47 (Bengj..... skjótast). Halld. m.: 'vega ... B. kv. vísu: *str.* 49 (Veit'k ... of minna). Þau Steinvǫr *usw.* ($33^{29}$—$34^{4}$. $35^{6}$—$^{14}$. $34^{4}$—$35^{4}$. $35^{15}$ *usw.*)

(16) nú mjǫk at eldaz. Þat var enn einn tíma at þingmenn kómu til Bersa; hann sat einn saman ok kom fyrr matr hans en annarra manna. Bersi hafđi graut, en ađrir menn ost ok skyr. Þá kvađ Bersi vísu:

47. Bengióþe hió'k bráþa
blafiþroþom skiáfo
(kendr vas'k miǫk viþ manna
morþ) halfan tǫg fiorþa:
troll hafe líf, ef laufa
lita'k aldrege bitran;
bere þá brynjo meiþar
briót í haug sem skiótast.

Halldórr mælti: 'vega ætlar þú mann enn þá, fóstri minn'. Bersi segir: 'sé ek manninn makligan til'. Þórdís leyfđi Vala bróđur sínum nytjar í Brekkulandi. Bersi lét húskarla sína vinna heima ok skipta engu viđ Vala. Halldóri þótti illa er Bersi réđ eigi fé sínu. Eptir þat kvađ Bersi vísu:

48. Liggjom báþer
í bekk saman,
Halldórr ok ek
[hverge fœrer]
hǫfom enge þrek,
veldr œska þér
enn elle mér,
þess batnar þér
enn þeyge mér.

Halldórr mælti: 'illa hugnar mér viđ Vala'. Bersi kvađ vísu:

49. Veit'k at Vale beiter
vegstórr tǫþor órar,
oss vill heldr enn hvasse
hialmniótr troþa und fótom:

---

47[1] -gióđi *Cpb*] -giđa *A* hio *Ch*] bio *A* bráþa] brađer *A*
47[2] skiáfo *H. Gering*] skrara *A*
48 *auch in* Laxd. *cap.* 28 48[2] í bekk saman] í lamasessi *Ld*
48[4] *om. Ld* 48[6] œska þér] elli mér *Ld* 48[7] elle mér] œska þér *Ld*

opt hefe'k ýfzk þá's heipter (16)
unnsólar galt'k runnom
(rauþ'k á brynjobeiþe
benja linn) of minna.

ok enn kvađ hann:

50. Komenn es Ullr viþ elle
alna grióts af fótom,
mart verþr gegnegautom
geirfitjar nú sitja:
þótt skirviþer skalde
skape aldr í grǫf kaldan —
fyrr rýþ'k hialms á holme
hríþvǫnd, an því kvíþak.

Halldórr mælti: 'lítt eldiz þú enn í huginum, fóstri minn'. Þau Steinvǫr ok Bersi talaz viđ; Bersi mælti til hennar: 'ráđ skal setja ok þurfu vér þín at'; hon sagđi þat skylt slíkt er hon mætti at gera. 'Þú skalt' *segir Bersi* 'láta þik á skilja viđ Þórdísi um mjólkrketil ok halda á þar til er þit sláit niđr; mun ek þá til koma ok mæla alt eptir henni; síđan skaltu fara til Vala ok segja þínar hrakningar'. Þetta fór eptir því sem Bersi setti ráđ til ok kom hon til Vala ok segir sínar eigi sléttar, biđr Vala fylgja sér um klifit; hann gerir svá. Þá er Vali vill aptr hverfa koma þeir Halldórr ok Bersi í mót honum. Bersi hafđi hǫggspjót í hendi ok staf í annarri, en Halldórr Hvíting. Þegar Vali sér þá snýr hann í mót þeim ok hǫggr til Bersa, Halldórr komz á bak Vala ok beitir á hásinar honum Hvítingi; þá bregđr Vali hart viđ ok snýr í mót Halldóri, þá setti Bersi spjótiđ milli herđanna, var þat hans banasár; síđan setja þeir upp skjǫld hans at fótum honum, en sverđ at hǫfđi ok breiđa á hann vararfeld hans ok eptir þat stíga þeir á bak ok ríđa um v bæi ok lýsa víginu á hendr sér ok ríđa heim síđan. Fara menn ok búa

49[6] unnsólar *GP*] vnd solar *A*
50[5] skir-] skyr- *A* 50[8] því kvíþak] ek þvi kuíđa *A*

(16) um Vala ok heitir þar síðan Valafall er hann var drepinn. Halldórr var nú xij vetra gamall er þessi atburðr gerðiz.

17 Þorvaldr hét maðr ok var Eysteins son ok var kallaðr tinteinn; hann var maðr auðigr ok hagr, skáld ok engi skǫrungr í skaplyndi. Bróðir hans hét Þorvarðr er bjó norðr í Fljótum. Þeir voru frændr margir ok var sá kynsþáttr kallaðr Skíðingar ok hafði litla mannheill.

Þorvaldr tinteinn bað Steingerðar ok at frænda ráði var hon honum gefin ok ekki með hennar mótmæli. Þetta var samsumars ok Steingerðr gekk frá Bersa. Þessi tíðendi fréttir Kormakr ok lætr sem hann viti eigi. Litlu áðr hafði Kormakr flutt varnað sinn til skips ok ætlaði utan ok báðir þeir bræðr. Einn morgin snimma ríðr Kormakr frá skipi, ferr at finna Steingerði ok talar við hana, biðr hana gera sér skyrtu; hon kvað enga þǫrf kvámu hans, kvað Þorvald eigi mundu þola hefndalaust eða frændr hans. Kormakr kvað vísu:

51. Máka'k hitt of hyggja
hví þú skylder verþa
gollhlaþs geymeþella!
gefen tindráttar manne:
trauþla má'k of tœja
tanna, silkenanna!
síz þik fastnaþe frægja
faþer þínn blotamanne.

Steingerðr mælti: 'auðheyrðr er fjándskapr í slíku ok man ek segja Þorvaldi hróp þitt ok er slíkt engum manni sitjanda'. Þá kvað Kormakr:

52. Þarftaþu hvít at hœta
Hlín skrautlegrar líno!
(vér kunnom skil skepja)
Skíþunga mér níþe:

$51^{2}$ verþa] virða *A* $51^{5}$ trauþla] traulla *A* tœja] teia *A*
$52^{1}$ hœta] hætta *A* $52^{3-8} = 65^{3-8}$ $52^{4}$ skiðinga *A*

naddhríþar skal'k níþa (17)
niót svát steinar flióte;
nú hefe'k illan enda
Eysteins sonom leystan.

Eptir þetta skilja þau međ engri blíđu ok fór Kormakr til skips.

Þá er þeir brædr létu or læginu kom upp hjá skipinu 18
hrosshvalr. Kormakr skaut til hans pálstaf ok kom á hvalinn ok søktiz; þóttuz menn þar kenna augu Þorveigar. Þessi hvalr kom ekki upp þađan ífrá, en til Þorveigar spurđiz þat at hon lá hætt, ok er þat sǫgn manna at hon hafi af því dáit. Síđan sigldu þeir á haf ok kómu viđ Noreg; í þann tíma réđ Hákon Ađalsteinsfóstri Noregi. Þeir bræđr fóru skjótt á konungsfund, tók konungr vel viđ þeim, voru þeir þar um vetrinn vel virđir. Um sumarit eptir leggjaz þeir í hernađ ok vinna mǫrg stórvirki. Sá mađr var í félagi međ þeim er Sigurđr hét, þýđeskr mađr ok vel borinn. Þeir gerđu víđa upprásir. Einn dag er þeir voru á land upp gengnir kómu at þeim bræđrum xi menn ok sóttu at þeim; lauk svá þeirra viđskiptum at þeir bræđr tveir sigruđu hina ellifu. Eptir þat fóru þeir til skipa; þóttuz víkingarnir mundu hafa látiđ þessa menn, en fagna nú því er þeir kómu aptr međ sigri ok fé. Í þessi ferđ fengu þeir bræđr mikla frægđ. Leiđ á sumarit ok var komit at vetri. Þeir vildu þá halda til Noregs, fengu veđráttu kalda, lagđi hrím í seglit; þeir voru jamnan mjǫk frammi bræđr; þá kvađ Kormakr vísu:

53. Skaka verþom vér Skarþe!
(skald á búþ til kalda)
— fiǫll ero fiarþar kelle
falden — hrím á tialde:

---

17 þýđeskr] þuiueskr (*sic*) *A* 18 voru . . . gengnir *Ed*] gengu . . gengnir *A*

53[1] verþom vér] verđ ek ver *A* Skarþe *SEg und GV*] skarđi *Ed* (*A*)

(18)
vilda'k at reiþar valde
være-a ungom hæra,
hann's til latr frá liósse
linnbeþjar Gná sinne.

Þorgils mælti: 'getr þú hennar nú jamnan, en þá vildir eigi fá hennar er buðuz kostir á'. Kormakr segir: 'meir olli því vándra vætta atkvæði en mín mislyndi'. Nú sigldu þeir at hǫmrum nokkurum, hlóðu seglum við mikinn háska. Kormakr mælti: 'vel mætti Þorvaldr tinteinn hér vera hjá oss'. Þorgils segir brosandi: 'þat er líkara at hann uni nú betr í dag en vér'. 'Eigi er þá sem skyldi' segir Kormakr. Litlu síðar tóku þeir Noreg.

19 Meðan þeir hǫfðu brottu verit var orðit hǫfðingjaskipti, Hákon var látinn, en Haraldr gráfeldr í stað kominn. Vingaz þeir við konung; hann tók þeirra máli vel. Þeir fóru með konungi til Írlands ok áttu þar orrostur. Þat var eitt sinn er þeir hǫfðu upp gengit með konungi ok kom mikit lið mót konungi ok þá er saman laust liðinu þá kvað Kormakr vísu:

54. Ugge'k lítt þótt legge
landvǫrþr saman rander
(vasat 'virðar' stœre)
vellauþegr mér dauþa,
meþan sker-iarþar, Skarþe!
skorþo man'k fyr norþan
(hvǫss angrar sú, sesse!
sótt) Þórketels dóttor.

Þorgils mælti: 'aldri kemr þú í þá mannraun at þér komi eigi jamnan í hug Steingerðr'. Kormakr segir: 'allítt fyrniz mér þat enn'. Þessi orrosta var mikil; fekk Haraldr konungr ágætan sigr, hans menn ráku flótta. Þeir bræðr voru staddir

53[5] at reiþar (reiðar *SEg*)] attræðar *A*   53[6] være-a ungū] veri avngu *A*   53[8] linnbeðiar *Ch*] linbeðrar *A*

16 áttu *Ed*] atti *A*.

54[3] virðar *A*] herr virþa?   54[5] Sk. *SEg und GV*] sk. *Ed* (*A*)   54[6] skorþu] skorð *A*   54[7] hvǫss] hvǫss of *Cpb* huess ok *A*

báđir saman; sneruz þá í mót ix menn, þeir bǫrđuz um hríđ. Kormakr kvađ vísu: (19)

55. Skiótt monom, Skarþe! herþner
(skolom tveir banar þeira)
alls andskotom hrinda
ǫrdrífr! nío fiǫrve,
meþan goþleiþom gáþa
grunnleit sú's mér unne
gengr at glœstom binge
gollseims-nióron heima.

Þorgils mælti: 'þar kemr þó optaz niđr'. Þeirra orrostu lauk svá at þeir bræđr fengu sigr, en hinir fellu ix; þeir tóku þar fyrir mikit lof af konungi ok marga sæmd ađra. Þeir bræđr voru međ konungi í herferđum jamnan; þá fann Þorgils at Kormakr svaf lítiđ jamnan ok spurđi hví þat sætti; þá kvađ Kormakr vísu:

56. Brim gnýr bratter hamrar
blálands Haka strandar
alt gialfr eyja þialfa
út líþr í staþ víþes:
mér kveþ'k heldr of Hilde
hrannbliks an þér miklo
svefnfátt; sǫrva-gefnar
sakna mon'k ef'ek vakna —

kann ek þat segja þér, bróđir, at ek lýsi útferđ minni til Íslands'. Þorgils mælti: 'miklu er fyrir fætr þér kastat, bróđir, ok ei veit ek nú til hvers dregr'. Þegar konungr verđr víss farfýsi Kormaks þá kallar konungr Kormak til sín ok segir hann óvitrliga gera ok letr hann ferđarinnar ok tjár þat ekki; réz hann til skips. Í útláti fengu þeir veđr hvast ok áfǫll stór ok brotnađi ráin; þa kvađ Kormakr vísu:

---

55[1] Skarþe *SEg und GV*] skarđi *Ed* (*A*) herđnir *Ed*] hernir *A* 55[3] andsk. *Ch*] annsk. *A* 55[4] ǫrdr.] hiordr. *A* 55[8] -seims *SEg*] -seim *A* heima *GP*] beima *A*

56[7] sǫrva *Cpb*] suaurua *A* 56[8] sakna *Ch*] sanna *A*

(19) 57. Esa mér sem Tinteine
(— trauþr's vásfara kauþe —
'skiart er' hann viþ þys þenna)
þriótr myksleþa brióte,
þá's allsnialler aller
oddregns stafar fregne
í Sólundar sunde
sundfaxa rą 'bundin'.

Þeir láta í haf ok þola harða veðráttu ok eitt sinn er komit hafði mikit áfall voru menn vátir; þá kvað Kormakr vísu:

58. Veit hinn es tin tannar
trauþr sæfara enn blauþe
(stǫndomk ilmr fyr ynde)
ógørva þat (sǫrva),
hvar eldfalden alda
opt gengr of skǫr drengjom,
hann á vífs at 'vitia'
varma búþ á arme.

Þeir hafa harða útivist ok koma um síðir utan at Miðfirði. Þeir kasta akkerum nær landi; þeir sjá á land upp hvar kona ríðr. Kormakr kennir Steingerði ok lét skjóta báti ok rær til lands, gengr skjótt frá skipi ok fær sér hest, ríðr til móts við Steingerði ok þegar er þau finnaz hleypr Kormakr af baki ok tekr hana ofan ok setr niðr hjá sér; hrossin ganga frá þeim ok líðr á daginn ok kemr at myrkri. Steingerðr mælti: 'mál er at leita at hestum várum'. Kormakr kvað lítils mundu við þurfa ok litaz hann um ok sér hvergi hrossin, en þau hǫfðu vafiz í einu lækjarfari skamt frá því er þau sátu. Nú ferr nótt at hendi; taka þau á sik gǫngu ok kómu til lítils bæjar ok var við þeim tekit ok veittr beini slíkr

---

57[3] skiart er *A*] skiarr's? 57[6] oddregns stafar *GP*] oddregnir stafat *A*

58[3] stǫndomk ilmr] stundum ilm *A* 58[4] þat *Cpb*] þer *A* 58[7] vitia *A*] venju *KG* vinna? 58[8] búð *KG und Cpb*] bauð *A*

